[Þess íslendska evangeliska smábóka félags rit Nr. 33.]



# Hugleidingar

yfir

nockur Atridi þeirrar Augsburgisku

Trúar-játníngar.

---

Utlagt af Utgéfaranum.

---

## 1ta Hugleiding til Inngángs.

Þad sem gódur Grundvöllur er fagurri byggíngu, þad er trúin Christindóminum. Hús á sandi bygt hrapar skjótt, Christindómur án trúar kollsteypist skjótt. Heila bygging Christindómsins samstendur af trú og gódum verkum.

Trúin án gódra verka er tóm innbirlíng, en gódverk án trúarinnar Kongul-lóar vefur.

Gud hefir þetta tvennt samteingt, og hann vill ecki þad adskiljist; því á því rídur manneskjunnar eylíf velferd. En fjandi mannkynsins hefir frá upphafi þessari Guds nidurrødun raska viljad,

og komið mönnunum sjálfum til að gjöra það, í stríð við þeirra eigin lukku.

Einkum hefir þetta auglýst sig á dögum nýa Testamentisins, eptir það, að trúarlærdómurinn komst á sína fullkomnu tröppu. Strags á dögum Postulanna lét það sig í ljósi; svo þeir fundu sig fulla orsök hafa, að vara tólk við þeirri villudómi. Postulinn Páll sýnir og sannar kroptugliga, að góðverk svokölluð gagni alls ekki til sáluhjálpar án trúarinnar; en Postulinn Jacob, að trúin só án verkanna ónýt. Báðir þ sér Guðs menn standa því fast á því, að hvörutveggju hljóti að fylgjast, eigi mannesskjan að hjálpast. En heimurinn hefir í þessu efni verið hræðiliga bitinn frá, að þræða meðalveginn. Sumir hafa hallðið offrekt, uppá nafn trúarinnar, í því að látast ekki reingja orð og lærdóma heil. Ritníngar, og seigjast hallda það fyrir satt, sem hún í Nýa Testamentinu talar um Guð föður, son og heil. anda, samt allar ráðstafanir Guðdómsins, fyrir Christum, til mannkynsins endurlausnar, og sýnist sem þeir hafi álitið þetta nóg til sáluhjálpar, þó lifnaðurinn ei svaraði lærdóminum, sem orðið gjæti; og þvílíkir eru allir munnchristnir hræsnarar. Aðrir þar á móti hafa staðið á því, að menn nærri mættu trúa hvörju þeir vildu, í tilliti til þeirra í Evangelío opinberuðu leyndardóma, ef þeir að eins hegðuðu sér vel, yrðu þeir eylífliga lukkuligir. En hvörirtveggju fara reyndar ram-

villir vega. Svo guddómlig sannindi sem þad eru, ad af trúnni, en ei verkunum, réttlætist manneskjan fyrir Gudi, svo satt er hitt, ad sú trú, sem hinir fyrri uppráhaldu, er ei sú rétta né sáluhjálpliga. Þeir hafa ad eins líkama trúarinnar, en sálina vantar; og hvar er hún?

Kiærleikurinn til Guds í Jesú Christo. Og þessvegna er þeirra sálarlaust trúarlíkami til allra gódra verka og gudligs lifnadar ældúngis óhæfiligur. Sama er um hina ad segja, sem standa á því: ad á verkunum rídi allt til sáluhjálpar, en á trúnni lítid; því þó þeir ad álitum sýnist nockud hyggiligar dæma, enn hinir, — þar útvortis sæmandi líferni ber allteð fremur sannleikans svip, enn óráddvendni og klækir — eingu ad sídur er þeirra villa megn og hættulig, já, þeim mun hættuligri, sem hún, framar enn hinna, gétur blindad med dygdanna útvortis yfirskini. Því fyrst gjæta þeir ecki þess — ef þeir annars trúa því ad Ritníngin sé Guds ord — ad þó þeir giørdu øll þau gódverk, sem møguligt væri, skipar þó Frelsarinn þeim ad álíta sig ónýta þjóna; (Luc. 17, 10), og ef þeir þad eru, hvørnig kunna þeir þá ad vænta sér heilla af því sem ónýtt er. Þarnæst, þó þeir, sem sagt er, giørdu øll ønnur manneskjunni møgulig gódverk, vantar þá þó þad eina verk, sem Jesús sagdi Gydíngum (Joh. 6, 29) ad væri þad rétta Guds edur Gudi þóknanliga verk, nefnil. »ad trúa á

Hann, sem Fadirinn sendt hefdi„; og á medan þetta eina verk vantar, eru öll önnur verk manns-ins, hvörsu álitlig sem sýnast — eins og dupt í metaskál.

Í þridja lagi er svo lángt frá, ad þeir í rauninni gjöri öll önnur þaug gódverk, sem þeir ættu ad gjöra, fyrir utan þad ádurtalda, ad þeir ecki gjöra þúsundasta part þeirra, heldur enn adrar syndugar manneskjur; svo þeir eru þá ei einasta onýtir þjónar í rauninni, heldur ótrúir sökudólgar fyrir Gudi; eins og ritníngin segir, „ad allur heimurinn sé fyrir Gudi sakfallinn„ (Róm. 3, 19) og hvörnig vilja þeir þá fá stadist? Í fjórda máta er ecki búid þar med, ad þeir ei gjöra þúsundasta part af því þeir gjöra skyldu eptir lögmálinu, ad þeir ecki gjöra tíunda part þess, sem þeir gjördt gjætu, ef þeir neytt hefdu trúliga allra gésinna krapta, tíma og tækifæris; og því seigir Jacob (3, 2) „allir vér brjótum margfaldliga„; því hvör er sá af öllum, sem eingid gæti fram fyrir Gud, og sagt, med gódri samvitsku; þú veitst, Herra! ad allt hvad mér var mögnligt gott ad gjöra í heiminum, gjördi eg, og forsómadi eckert. Í fimta máta bætist þad vid, ad þad lítid gott menn gjöra, er hjá öllum ófullkomid og vansafullt; og þad sýnir sig berliga, ad margir þeirra, sem uppá verkanna réttlæti mest stóla og stólad hafa, ecki einúngis gjöra í bland stjáanliga opt af ásetníngi verr

enn þeir vita, heldur og að margt af því, sem þeir vilja láta kallast velgjörðir, hefir verið svo einúngis að yfirvarpi; þar í mörgum greinum hefir sínt sig, hvörsu stundum eintómt náttúrufar, stundum ærugirnd, stundum ágirnd, stundum laga-ótti og þessháttar hefir verið þess undirrót; svo dygðir þær, er þeir hafa viljað láta svo heita, hafa reyndar verið skindygðir, eður og lestir í dygða hami. Þetta er og til vonar, því þegar þá sönnu dygðanna uppsprettu, það áðurnefnda Guðsverk, Trúna, fulla af kjærleika til Guðs fyrir Christum, vantar, er ómöguligt, nockrar sannar dygðir eður góðverk að æfa. Hvar af flýtur, að þegar slíkar manneskjur vilja þó af verkunum réttlætast, taka þær annaðhvört að skapa sér sjálfar lögmál og verk, til að þóknast Guði, sem þeim er á nockurn hátt möguligt að fylla, ellegar hinskostar, þegar þær skynja að slíkt hlýtur heimska að vera, þá að takmarka hlýðni sína við Guðs lögmál á ýmsan hátt, eptir sem þeir finna sér möguligt hið ytra, að halda við dygða svip í augum mannanna, og láta því sumir vondar girndir og þánka alldeilis tollfría, enda þéna til afbötunar, opt sjálfskapuðum, ytri verkanna vansa. Svo dygðir þeirra flestu eru því sem nýt fyrir utan kjarna; fagurt málað hlæti, sem ekkert líf í sér hefir; hús bygt af súnum, en fegrudum viðum, yfir sandgrundvelli.

Sú fyrri heimskan hafði hertekið menning á

Páfadómsins tímum, þar þeir snandir af lifandi trú og kjærleika til Christs — jafnvel þó þeir hans fridþægíngu ecki neitudu — fundu sér ómøguligt ad halda Guds bodord, og uppfunnu því ýmislig helgiverk og setníngu til ad lifa eptir, í þeirri meiníngu, ad géta med þeim réttlætt sig fyrir Gudi, þó hin sönnu gódu verkin brisfi. Þennan dárligasta villulærdóm hrecktu nú Endurbætendur Trúarbragdanna, Lúther og adrir á hans døgum, og sýndu hvørsu allt þvílíkt var ecki einasta fánýtt, heldur fordæmanligt; þar eingin verk ønnur kynnu Gudi ad líka, enn þaug hann sjálfur bodid hefdi, hvørra mælisnúra ad heil. Ritníng einsfostar væri.

En þar manneskjan — í sinu náttúrliga ástandi — gjæti þó ecki, hvad vel sem hún bæri sig ad, uppfyllt Guds løgmál, heldur yrdi alltíd, eptir því, daudasek fyrir hønum, hlyti Trúin á Jesú fridþægingu, eptir Evangelio, ad bæta þenn brest, og afla manni þess réttlætis, sem fyrir Gudi gildti, en þó jafnframmi full af elsku til Guds, fyrir slíka náð, óaflátanliga knýja hann til allra møguligra gódverka, innvortis og útvortis, leyndt og ljóst.

Þessi var nú lærdómur sá, sem Endurbætendurnir leiddu aptur í ljós, og bygdu einskostar á heil. Ritníngar ótvíræddum vitnisburdi. Þannig vildu þeir hvørki láta bæta vid lærdóma hennar eins og Papistar gjørdu og hjátrúarinnar vísa

jafnan er, né heldur frá þeim tako, eins og hitt-
um eidri sem nýrri vantrúar sonum tamt er;
þar vid hvörutveggja er af Gudi lagt jafnt
forbod og jafnt straff, sjá 5 M. 6. 4, 2. Ov. 22,
18. 19. En af sömu rótum sem þad rann, ad
hjátrúin jók vid lærdóma Ritníngarinnar, af
sömu rótum rann og rennur enn hitt, ad van-
trúin frá þeim dregur, þeim nefniliga: ad hinn
sanni lærdómur er holdligum manni, á margan
hátt, ýmid ógedfeldur. Fyrst fyrir þá skuld,
ad hann heimtar sífelda nidurdríúpandi audmýkt
fyrir Gudi í sinni manns; þar honum ber ad
álíta sig af náttúrunni sem daudadæmdan sóku-
dólg eptir Guds lögmáli, en ad Gud gjöri sér
kost á nád ad eins med því móti, ad hann, midt
í slíku hugarfari, leiti hennar hjá honum, med
bæninni, í trúnni á Jesú fridþægíngu; hvad svo
ofurilla á vid þá stoltu og sérgódu manns náttúru.
Þarnæst er sagdur lærdómur óþægur fyrir
þá sök, ad þó hann svoleidis kénni manni ad
brúka Jesú Fridþægíngu til sinnar einustu rétt-
lætis ásædu fyrir Gudi, heimtar hann samt eíngu
ad sídur ad madurinn, til þakklætis vid Gud og
sinn Frelsara, skuli, sem best hann gétur, ástunda
gudligt og sanndygdugt líferni, og þad ekki sídur
í bettu þánkamátans hid innra, enn hegdun sinni
útvortis. Og þar á ofan — þad sem allra sárast
er — skipar manni, ad votta hreinskilni hjdanz
sinnar vid Gud í því, ad æfa þær dygdir, eptir

hans vilja, sem náttúrufar manns mest er bitid frá, og dempa þær syndugar girndir, sem hann mest er hneygdur til; já, seigir manni skorinordt: ad ef hann gjøri ecki þetta, sé trú hans á Christs Fridþægingu ónýt, hann sé þá hálfvolgur hræsnari, hvørjum Gud vilji skirpa út af sínum munni. Vegna þess mannliga náttúru hryllir nú svo mjøg vid þessu, hafa sumir aldeilis skúfad allri trú á yfirnáttúrligum lærdómum, og allra helst trúnni á Christs Fridþægingu, svo sem ó, arfri og jafnvel skadligri, þar hún fyrirmuni manni allt traust á eigid réttlæti og dygdir, og innræti honum því forakt þeirra og síns eigin verdugleika. Adrir, sem ecki synast hreint vilja trúnni neita, vilja samt trúa því einu, sem þeim gott þykir, því sem skilningur þeirra gétur gripid og hjarta þeirra ecki hryllir vid; hvørsvegna þeir ecki vilja gjøra mannsins náttúru svo vonda sem Ritníngin lysir henni; vilja ad mannsins dygdir, ad minsta kosti medframmi, réttlæti hann fyrir Gudi; tala um skylduverkin og þeirra uppfyllíngu fagurliga, og láta í ødru ordi á sér heyra, ad hún ecki sé svo ørdug sem af er látid. Gud ecki svo vandlátur sem honum er lyst, mann eskjan ecki svo ill sem hún er søgd, né svo van burda til góds sem um er qvartad. Þeir snúa þessvegna Ritníngarinnar ordum, sem um þetta tala, á ymsan hátt vid, takmarka þaug, undanskilja og innblanda, eptir gédþótta. Þeir vilja ad

Ritníngarinnar útleggíng lagiſt eptir ſínu høfði, en vilja ecki að ſitt høfuð og hjarta lagiſt eptir Ritníngunni. Þannig gjøra þeir Ritníngana tvíræða, fulla með mótſagnir gégn ſjálfri ſér og krokka af mannekiuligra hleypidóma talsháttum. Í einu orði: Ritníngin er fyrir þeim ſem náma ſú, í hvørri að eru í bland nockrar góðar æðar af gagnligum málmi, ſem er hennar ſiðalærdómur og máſke trúin á Guðs forsjón, er þar á milli full af leir og leðju, ſem þeir einir þykjaſt hafa vald og vitſku til burtu að hreinſa.

Þeſſu likur var Sóciana lærdómur, ſem uppkom á Lúthers døgum, jafnvel ſæðið til hans gfgamallt væri; hver ſíðan, einkum á nærſtliðinni øldu, útbreiddi ſig, undir ýmſum myndum og nøfnum, og enn nú ſkríður og læðiſt ſem eitnrormur í graſinu, hjá ſumum, og bítur þá, ſem ei því betur að ſér gá, til meiri eður minni ſálarſkaða. En hvørſu ólíkt þetta er nú kéuníngu Lú-hers og hans meðerſiðara, vita allir þeir, ſem með nockrum ſkilníngi, nunið hafa að eins bið fyrſta ſtafrof chriſtiligs lærdóms, útaf Lúthers barnalærdum, ſem allir ámeðal vor kunna, að eg ecki tali um þá, ſem hina bleſſuðu lærdóms-bók fyrir úngdóminn, réttiliga nunið og ſkilið hafa. Nú hø[illegible]jum vér allir, bæði leikir og lærdir, í ſkírninni og við fermíngnna hátíðliga ſvo gott ſem ſvarið undir þaug trúarbrøgð, ſem Lúther eptir Ritníngunni kéndi, og einkum allir Preſtar

vid inngaungu síns embættis, unnid þann eid ad legum, ad kénna sínum söfnudum, án allrar umbreytíngar og undanfellíngar, lærdóm þennan; já, ecki einasta kénna þann, heldur og til blódsins strída á móti öllum þeim setníngum, sem Guds ordi í nockru gagnstædar eru. Þessvegna, þar sem vér höfum hina merkiligu ritgjörd vor á medal, sem endurbætendur trúarbragdanna í upphafi sömdu, og meina þá svokölludu Augsborgar Trúarjátníngu, hvar eptir konúngligri skipun fylgja á nú sérhvorin prestkalli í þessu konúngsríki, og hvar ed inniheldur undirstödu þess lærdóms, sem sá stóri Guds madur Lúther framfylgdi, svovel móti Páfadómsins sem annara villu-anda kénníngum, svo rit þetta hefir alltíd haldid verid sem Einkunnar rit vorrar kyrkju, þá vil eg hér framsetja nockra af þess dýrmætu atridisgreinum, sem einkum snerta undirstödu vorra trúarbragda. En .as því ritlíngur þessi er samt í verunni mannaverk,' sem þó á ad forsvara Gudsverk til vorrar sáluhjálpar, eptir heil. Ritníngu, hvar alleina er sú bræka og óhrávikjanliga mælisnúra vorrar trúar og hegdunar; þá vil eg í Guds nafni leitast vid ad sýna og sanna, hvörsu þeir lærdómar, sem nefndt rit framsetur, séu óyggjanliga bygdir á hennar órofrædum og hafbekudum vitnisburdi, eptir því sem audmjúk og útbrotalaus mannlig skynsemi best skilid getur.]

Ó, sendtú nú anda þinn, Drottinn! til ad-

flodar þessu fyrirtæki. Lát hann leida oss í allan sannleika trúarinnar, svo hvorki blindi oss sú vantrú, sem eingu vill trúa, nema því sem hún sier og skilur, en dæma yfir því, sem ecki hefir auga sjed, né eyra heyrdt, og ei hefir nockrum í huga komid; og ei heldur hjátrúin, sem byggir sínar ástædur á inndirlíngu einni og manna myndugleika, en hennir ecki ad leita eptir sannleikans rétta grundvelli! Já, gef oss ad trúa því, sem mest upphefur þig og elskuverdan gjörir, sem ædstu og giædskufyllstu veru, en audmykir oss og forbetrar, sem sekar og syndugar skepnur! Lát óransakanligleika þinnar veru, óendanligleika þinna eiginligleika, addáanligleiká þinna ágvardana, heilagleika þinna bodorda og miskunarríki þinna fyrirheita, fylla vor hjørtu med lotníngu, lofgjörd, tilbeidslu, kjærleika, trausti og rósemd! Og þó vér ad eins þeckjum þig vorn Gud og þann þú sendir Jesúm, hér sem í speigli og rádgátu, þá lát samt þeckíngu þá nægja til ad vegleida oss til eylífs lífs, hvar vér sáum ad sjá þig, eins og þín heil. ritníng kénnir, augliti til auglitis, og gledjast og sedjast af skodun þinnar guddómligu veru og eiginligleika ad eylífu! Bænheyr oss um þetta, himneski Fadir, fyrir þinnar miskunar sakir! Amen!

---

## 2r Hugleiding yfir þad fyrsta hofud-atridi þeirrar evangelisk-christiligu Trúar.

### U m G u d.

Med fullkominni samhlj.dun kénna kyrkju-safnadir vorir, ad ályktan hinnar Nicæisku Prestastefnu, um ein.ngu guddómligrar veru, og um þriar persónur (í hinni somu), sé sönn, og ad mönnum beri, án nockurrar efasemdar, henni ad trúa; nefnilliga, ad sú guddómliga vera sé (einasta) ein, hvör ed bædi kallast og er Gud, eylifur, án likamligs edlis, óskiptan-ligur. sem (í sér) hefir ómælanliga makt, speki og gjædsku; (hver ad er) skapari og vidhaldari allra hluta, syniligra og ósyniligra; og þó sem edur séu þriár persónur (í Guddóminum), sem hafi sömu veru og makt, og sem eru sameylíf-ar, (nefniliga) Fadir, Sonur og heilagur Andi. Líka bruka (safnadir vorir) þetta nafn persóna í þeirri merk.ngu, sem kyrkjuskrifararnir hafa þad í þessu (sama) máleni (ádur) brúkad (nefn-iliga) ad þad ei merki part edur ásigkomulag annars hlutar, heldur (nockud) þad sem hefir sína eiginligu undirstödu (í sjálfu sér).

(Þar af flytur, ad safnadir vorir) fordæma allar villumeiningar, sem gégn þessu (trúarinnar hofud-) atridi uppkomid hafa, til dæmis: Mani-chæanna, sem sastsettu tvö upphöf hlutanna, gott og illt, sömuleidis Valentiana, Ariana, Eun-

omiana, Mahómeta og allra sem kesuum lésir eru. Þeir fordæma ogsvo (villu) Samosetanna, hinna gömlu og nyu, hvörjir á því standa, ad ecki sé nema ein persóna (Guddómsins), og kesavegna brúka gudlaust og flóttugt svillital um ordid og heil. anda, sem (Þeir seigja) ecki séu adgreindar persónur, heldur ad ordid merki þad hljómandi (edur talada) ord, en andinn þá skjóndu hræríngu í hlutunum.

Í þessu atridi heyrum vér, ad sá dásamligi leyndardómur þrenníngarinnar, í þeim eina eylífa Guddómi, er lyrir sjónir settur, hvar þó aldeilis yfirgángi mannliga skynsemi, firidir hann þó eingauveiginn henni á móti; því þad er sitt hvad.

Þad kallast mótstrída skynseminni í tilliti til trúarbragdanna, sem annadhvört er Gudi óverdugt, edur í sjálfu sér ómøguligt, til dæmis: þad væri Gudi óverdugt og þar fyrir ómøguligt, ad hafa géfid nockurri sinni einfaldri skèpnu þá sømu makt og dyrd, sem hann sjálfur hefir; því bædi neitar hann opinberliga í ordi sínu, ad hann vilji gjøra svo (Es. 42, 8. 48, 11), svo og líka þykir þad nidra tign hans, sem er einvaldur og alvaldur allra hluta.

En þetta liggur ecki heldur í lærdómi þrenníngarinnar; því þó vér seigjum, ad Gud hafi syninum géfid allt vald, sett hann til sinnar hægri handar og s. fr. þá játum vér undir eins, ad sonurinn hafi verid samveruligur sødurnum eptir

Guddóminum, og þessvegna hafi tign þessa ad eignarrádum frá eylífd, en látid manndóm sinn taka hlutdeild í henni, sökum hinnar persónuligu sameiníngar; svo þad sem Guddómur Jesú sjálfs tillagdi sínum uppátekna manndómi, var svo gott sem af födurnum tillagt. En í sjálfu sér ómöguligt og innvortis gagnstædt væri þad, ef vér segdum, ad í Gudi væru þriár persónur og þó ein persóna, ein vera og þó þriár verur, því þá ætti hann ad vera í sama tilliti bædi einn og þrennur, sem ei gjæti stadist; en nú seigjum vér hann einan og þrennan, sitt í hvörju tilliti; einan í tilliti til verunnar, þrennan í tilliti til persónanna. Nú þó vér ecki skiljum hvörsu þessari þrófoldu einíngu í Guddóminum háttad sé, er þad eingin furda; því þar vér ecki skiljum þúsundasta partinn af verkum Guds, hvörnig meigum vér þá hans eigin veru skilja? Gud hlýtur ad vera öllum sínum skepnum óskiljanligur, ecki einúngis mönnum, heldur og einglum, annars væri hann ecki sannur Gud; því eckert minna enn óendanliga — þad er guddómliga — skynsemi þarf til ad þeckja hinn óendanliga Guddóm; en allra skapadra vera skynsemi hefir sín takmörk, þó hún hafi þaug ad vísu þreyngri hjá sumum enn sumum. Ad-vísu finnast ei þessi ordatiltæki: ad kalla í Gudi persónur, þrenníngu edur Þríeiníngu, í Ritníngunni; en þad er allt hid sama, þegar meiníng sú, sem þessi ord eiga ad útlista,

finst í henni. Í ellum vísindagreinum eru gjerd ar-usln, til léttirs, brúkanlig. Þetta atridi tru=arbragda vorra, um Þríeiníngunna í Gudi, er eitthvert hid ypparsta, og svo sem grundvall-arsteinn undir bygginingu þess heila trúarlærdóms, ad hverjum umveltum, þeísu heilaga Trúar mu-steri er hrapun búin. Því yfir hann er bygdur lærdómurinn um Guddóm Jesú Christs og heil. Anda; um gildi Jesú Fridþægíngar vor vegna, og vorrar þaraf fljótandi réttlætíngar; samt um skyldu vora ad veita Syni og Anda gudliga dyrd-kun; líka svo um sendíngu heil Anda, og verk-anir hans til mannsins endurfædíngar, og fl. Enda meigum vér þess gladir vera, ad þetta atridi vorrar trúar er óyggjanliga bygt á vitnis-burdi heil. Ritníngar, svo oll myrkranna makt megnar hvorki ad hnecka því né hrinda.

Ad vísu á skynsemin ad vera dómari í mál-efni þeísu; en hún er þá skyldug ad dæma eptir gegnum og vitnum, en edi eptir eigin ímindun; annars er hún ránglátur dómari. Nú verdur þad óræka guddómliga skjal, heil. Ritníng, lygd í rétt fyrir hennar dómstóli, sem inniheldur marga, af gudi sjálfum stadfesta svolátandi vitn-isburdi. 1, ad Gud sé ad vísu einn einasti ad verunni til, sem dómarinn þykist og sjálfur skynjad géta; þar fleiri enn ein óendanlig vera ei géti stad hast, því ella takmarkist sú eina af annari. 2, ad þessi Gud, og eingin annar vera

géti verid eylff, almáttug, alvís og s. frv., svo þetta sen Guddómsins staklígu einkénnis eiginlig leikar, sem dóm-aranum ogsvo skilst. 3, ad í þessum einasta Guddómi sé þó nockud þrennt adgreindt, er Ritníngin nefnir Födur, Son og Anda, og strekar opt þessa adgreiníngu, samt talar um hana, sem um vissar persónulegar undirstödur; þennan lærdóm hefir dómarinn aldrei heyrdt fyrr enn af Ritníngunni. 4, Én ad þessar svonefndu Persónur, einkum Sonur og Andi, heyri þó sjálfri Guddómsins veru til, en séu ecki fyrir utan hana, skest af því, ad Ritníngin tilleggur þeim ecki ad eins nafnid Gud, heldur þad sem meira er, þá allrahærstu eiginnlegleika: Eylífd, Almætti, Alvitsku og s. fr. sem Guddóminum einnm — en eingri annari veru — tilheyrdt géta. Ut af þessu sellir þá skynsemin þennan dóm: ad nockud þrennt hljóti ad sennu í Guddóminum, í vissu tilliti adgreint ad vera; en þó svo ad þad í tilliti til adalundirstödunnar edur verunnar sé eitt og óadgreint. Og þetta verdur fróðari skynsemi því trúanligra — þó hún ecki skilji það — sem þad sannar framar sjálfsagdan óraniakanligleika guddómligrar veru.

En ad þessar ádurfögdu setníngar séu nú vafalausar eptir lærdómi Ritníngarinnar — bædi þess gamla og þó einkum þess nýa Testamentis — sanna eptirfylgjandi greinir: 1, Ad Gud sé einn einasti seigir Moyses (5 B. 6, 4.) med þessum ordum: Heyr þú Israel, Drottinn vor Gud,

er

er einn einúngis Drottinn. Hjá Esajam (49 21.) seigir Guð: þar er einginn Guð, utan Eg — já, einginn utan Eg. Og Páll seigir (1 Cor. 8, 4) þar er einginn Guð, utan sá eini. 2, Að þessum eina Guði — og eingum eð um — geti tilheyrdt þeir Eiginlegleikar að vera eylífur, almáttugur, alvís og svo fr. sinir og svo Ritníngin: Eg er sá fyrsti og síðarsti seigir Guð (Es. 44, 6) og fyrir utan mig er einginn Guð Hvør er hinn líki, seigir Meyses (2 B. 15, 11) sem er svo máttugur, heilagur, hræðiligur, losligur, og svo dásamligur í sínum verkum, sem þú? Er eg ecki sá, sem uppfylli Himin og Jørð? seigir Jehóva (Jer. 23, 24). Einginn er góður nema Guð einn, sagði Jesús (Math. 19, 17). 3, Að í þessum eina Guðs guddómi sé þó nockuð þrennt aðgreint, sýnir Ritníngin einnig augljósliga. Í sögu Matthæi (3, 16. 17) um Jesú skírn, er Faðir, Sonur og Andi tilteknir skiljanliga: Faðirinn talar um soninn, af himni; Sonurinn skírist í ánni Jórdan, og Guðs Andi stigur niður í dúfulíkíngu. Jesús sjálfur (Jóh. 14, 17) giørir ótvíræða aðgreiníngu á guddómsins versónum (Jóh. 14, 16. 26) þegar hann seigir: Eg skal biðja Føðurinn, og mun hann senda yður annan huggara; hér aðgreinist sá sem biður, frá þeim sem gefur, og báðir frá þeim sem gefinn er. Boðorð skírnarinnar, til allra þeirra sem meðtaka Jesú trúarbrøgð

(Math. 28, 19) sannar kroptugliga hid sama: Farid og skirid allar þjódir í nafni Födur, Sonar og H. Anda, seigir Jesús. En — 4, Ad þessir þrír heyra þó allir til þeim eina og sama guddómi, edur, sem vèr plögum ad seigja: ad Sonur og Andi sèu samtar vera med Födurnum, sjest ljósast af því, ad þeim tilleggiast, í Ritníngunni, öllum jafnt, guddómligir eiginligleikar og verdugleiki og sfundum nafnid sjálft. Til dæmis í því skrags áminnsta skírnarbodordi, er þeim öllum tillagdur sami heidur, ad skýrast skuli í þeirra nafni, nefnil. til ad trúa á þá, dýrka og tilbidja alla jafnt, sem sannan Gud. Því væri ecki sú meiníngin — sem efalaust er — leiddi þessi skipan Jesú til marggudatrúar og þarmed til afgudadýrkunar. Sama sýna líka ord Postulans Páls (2 Cor. 13, 13) N d Drottins Jesú Christs, Kiærleiki Guds og sameign Andans, sé med ydur öllum! Ord þessi innihalda ósk til guddómsins, en sú ósk hefir bænar náttúru. Nú bidur Postulinn hèr Son, Födur og Anda, hvorn um sig; þad sýnir ad þeir eru þrír á sinn hátt adgreindir; en þad hann tilbídur þá alla jafnt, sýnir ad þeir eru þóallir jafnverdugir tilbeidslu, og þessvegna sömu og einnar veru.

Ord Postulans Peturs (1 P. 1, 2) sanna þad sama, þegar hann seigir, ad Hýdíngar séu af Gudi útvaldir, eptir fyrirhyggju Guds Födurs, til helgunar Andans, til hlýdni og til

(dreifíngar blóds Jesú Christs. Hér nefnast
þrír adgreindir, en tilleggiast þó hvørjum um sig
guddómligar verkanir; Fødurnum yrirhyggjau;
Andanum helgaunin og Syninum friðþægíngin.
Híngad lúta og ord þau, sem standa hjá (Jóh.
1 P. 5, 7) þrír eru þeir sem vitnisburdinn
bera á himni: Fadirinn, Ordid og h. Andi,
og þeir þrír eru eitt; sem ljóst sýna adgreiníngu
persónanna í guddóminum, en eining verunnar *).

Hér sýnir utan tilleggjast í Ritníngunni alls-
vída hvørri persónunni útaf fyrir sig guddómlig
nøfn og eiginlegleikar. Soninn edur Ordid nefnir
Jóhannes frægð í inngángi síns Gudspialls med
berum ordum Gud, og tilleggur hønum þar hjá
sköpun allra hluta; þann augljósasta guddómsins
eiginligleika. Páll nefnir (Róm. 9. 5) Jesúm:
Gud blessadan ad eylífu, og svoleidis ylegudir
Gydíngar ad titla þann ædsta Gud (Marc. 14,
61). Jóhannes í sínu sendibréfi (1 P. 5, 20)
kallar hana sannan Gud og eylíft líf; hér er
þá Guds nafn og undireins dásamligur Guddóms
eiginligleiki hønum eignadur.

(* Þó ord þessi finnist ekki í øllum gømlum
handskrifum Nyatestamentisins, er þad samt
eingin full røksemd þess, ad þaug ei frá Post-
ulanum komin séu, því sídur sem þad skrif-
ad finst, ad lærifedur á 3ju og 4du øld háfi
vitnad til þeirra.

Í pistlinum til hebreskra (1, 8) er sagt um soninn, eptir Davíðs munni: þinn trón, ó Guð! stendur um alla eylífð, og skemmu áður verður hønum eignuð skøpun allra hluta og viðmakthéldi; og í pistl. til Cólóisanna (1, 16) eignar Postulinn Páll hønum eins þetta hvørutveggja, og það með sterkustu orðatiltækjum. Hann seigir og svo i sama pistli (2, 9) að í Jesú búi øll fylling Guðdómsins; það er: allir Guðdómligir eiginlig leikar. Svo og tilleggur Jóhannes Syninum eylífð. Þegar hann seigir, að hann hafi verið í upphafi hjá Guði (Jóh. 1, 1), áður enn allir hlutir vóru skapaðir; og Jesús tilleggur sér hana sjálfur, (Jóh. 17, 5. 8, 58. Op. 1, 11). Allstaðarnálægð tilleggur hann sér (Jóh 3, 13) nær hann seigir: að mannsins sonur sé undireins á himni og jørðu. Líka frjálsræðisfullt almætti, seigjandi: að allt eins og faðirinn gjøri lifandi hvørja sem hann vilji, svo gjøri hann og líka (Jóh. 5, 21); og þessvegna seigir hann: að allir eigi að dyrka sig, rétt eins og føðurinn. Alvitsku tilløgðu lærisveinar Jesú hønum (Jóh. 16, 30) þegar þeir søgðu: nú vitum vér, að þú veist alla hluti, og Jesús sjálfur viðurkéndi: að þá hefðu þeir rétta trú. Sama sagði Pétur út af fyrir sig við Jesum (Jóh. 21, 17) og uppá þá trú fól Jesús hønum á hendur sauði sína. Thómas nefndi Jesúm: Drottinn

sinn og Guð sinn (Jóh. 20, 28) og þá hrósaði Jesús Trúarjátníngu hans.

Um þá þriðju persónu Guðdómsins heil. Anda, finnast einnig, út af fyrir sig, lík ordatiltæki; svo nefnir Pétur (Pg. 5, 3. 4.) heil. anda, að hvörjum Ananías logið hafði, Guð. Og Páll (1 Cor. 3, 16) kallar þá trúaðu, sem heil. andi búi í, Guðs musteri. Almætti tilleggst Guðs anda í Davíðs ordum (Ps. 33, 6.) þar hann seigir: að himinsins her — allar þær þúsundstirnum þúsund veraldir — seu af Guðs anda skapaðar; og sama seigir Joh. (13, 4.) að andi Guðs hafi sig skapað. Allstaðarnálægð tilleggur og Davíð honum (Ps. 139, 7.) þá hann spyr. hvert skal eg fara frá þínum anda drottinn! Alvitsku Postulinn Páll (1 Cor. 2, 10) seigjandi: að andinn ransaki alla hluti; svo og líka almætti og æðsta Friálsræði, þar hann seigir, hann hafi útbýtt hvörjum, eptir sem hann vildi, Kraptaverkagáfum, í hinni fyrstu Christni.

Jafnvel nú þeir stragð tilfærðu staðir úr gamla Testamentinu bendi að vissu til þess, að og svo á þeim tímum hafi Guðsmenn trúað, að í Guðdómsins veru byggi á vissan hátt nockuð adgreindt, sjest það þó af odrum stoðum enn ljósara. Að Guðs nafn verdur opt nefnt í fleirtali, í þeim hebresku texta, er víst eptirtektaverdt: Svo hljóða, til dæmis, þau áður framfærðu Moyses orð (5 B. 6, 4.) eptir höfuðtextanum.

heyr þú, o Israel! Jehóva, vorir Gudir, er einn Jehóva

Og ad þessi talsmáti skali vissuliga meira merkja, enn hátign Guddómsins veru — eins og nockrir meina — sjest berliga af ordum þeim, sem Guddóminum eignud eru (Gen. 3, 22.) um sjálfan sig, eptir mannlegs fall: Sjá! Madurinn er nú ordinn, sem einn af oss; þvi hér er fleirtalid uppleyst í sína eiginliga merkingu. Þetta hafa og skriftlærdustu menn til greina tekid. Svo er og svo umhugsunar verdt, ad í gamla Testamentinu finnast þeir stadir, hvar Gud adgreiniss frá Gudi, Drottinn frá Drottni; til dæmis Gen. 19, 24. hvar ed stendur: ad Gud Drottinn hafi látid rigna frá Gudi Drottni elldi yfir Sódóma. Í Exod. 34, 5: 6. hrópar Drottinn um annan Drottinn. Hjá Hos. 1. 7. talar Drottinn um annan Drottinn, sem sé Frelsari. Hjá Es. 61. 1. seigir Drottinn ad Drottinn hafi smurt sig. Og í þessum ordum bædi svodel Jehóva og Elohim, um þá adra sem fyrstu persónu. Þá er og all markverd sú kénnimannliga Blessan (Num. 6, 23.) hver, enda eptir sjálfra Gydínga vidurkénníngu, bendir til þrieiníngar leyndardómsins, í hverri ad nafnid Jehóva (Guds eigindómsliga nafn, er hann vill eingum ödrum géfa) strekast þrisvarsinnum. Hver strekan annars var ecki einúngis ónaudsynlig, heldur jafnvel til ásteytíngar, þar hún kunni ad leida Gydínga

til Marggudatrúar, móti hverri þá Móyses sam-
vitskusamliga vandlætti. Já, ytrari úrmálan
þessara Blessunar orda, sást og svo Ps. 67, 7.
hvar Guds nafn prísvar, med vidleitni ad vekja
eptirþánka, framsettst í þessum ordum: Gud, vor
Gud blessi oss, Gud blessi oss, og öll Endi-
mörk jardarinnar óttist hann! Skyli nú þessir
stadir og ymsir fleiri, í því gamla og nya Testa-
menti, ecki hafa nockra skakliga merkíngu, þá
hafa þeir ad eins óklad hneigst, skadligu firrdi
og plágandi grufli, ef ei nockur guddómligur
leyndardómur, sem ei mátti dyljast, bjó þar und-
ir; og væri þad óverdugasta ímindan um Gud,
ad hann skyldi tilefni til þess gésid hafa, og ecki
brúkad annur ljósari og ótvíræðari ordatiltæki.
Nú þó Socinianar og adrir þeim skildir, vilji
þessar greinir Ritníngarinnar ödruvísi útleggja,
géta þeir þad aldrei nema med bersyniligri þvíng-
gun meiníngarinnar og afbökun, sem óvidur
kvæmiligt er ad gjöra eins manns ordum, hvad
þá eylífs Guds? hvörs guddómligar veru dypt-
ir einginn kann ad ransaka nema hans eiginn
andi, og hvörsu viljum vér þá manneskjur vera
svo djarfir, ad umbreyta þeirri bókstafligu mein-
íngu orda hans, hvar hann talar vid oss, edur
lætur tala um slíka leyndardóma? Hvar fyrir
vér sláum þá af öllu þessu, ad lærdómurinn um
Þríeiníngu í guddóminum, er fylliliga bygdur á
biblíunnar vitnisburdum; og þar hún er Guds

lifanda orð, oss af honum gefin til reglu og mælisnúru, svovel trúar vorrar, sem siðferðis, erum vér jafnskyldugir að trúa því eina sem aðru, er hún kénnir oss, enda þó það í mörgu, sem von er, gángi yfir vora takmerkuðu skynsemi; þar vér hljótum að vera jafnt Skuldbundnir til að gefa skynsemi vora, sem frívilja, fángna undir Guðs heil. orð, þar hann er beggja jafnmiðndug- ur yfirherra, og kann með sama rétti að setja henni lög, sem honum. Látum oss þessvegna vara- ast, að vilja setja oss til dómara yfir Guðdóm- sins leyndarmálum, og ætla ekki skynsemi vorri hærra flug, en henni leyst er. Guð býr í því ljósi, sem eingin fær tilkomist; hann er óransak- anligur; eingin endanlig skynsemi — jafnvel ekki hösuð einglanna sjálfra — skilur að öllu leiti leyndardómi hans veru. Hvað þá vér mannanna börn, sem ei þekkjum vora eigin manneskjuligu veru til hlýtar, hvað munum vér Guð, þá æðstu veru — sá vera allrar veru — þekki góta. Lát- um oss því hvörki auka eður vana ritníngarinnar heil. lærdóma, þessu eður öðru tilliti, (so for- mælíng sú, er Drottinn slíkum hótar (Op. 22, 18. 19) ekki yfir oss dynji. Tilbiðjum heldur þann þreina Guð; með auðmjúkustu lotníngu, miðt í vorum einfaldleika, og undirtakum með Einglunum vort þriheilagur, þessum þreina Guði til æru. Þökkum Guði fyrirþessa leyn- dardóms opinberun, sem er svo sem fyrsta upp-

spretta til þess yndisliga og allra naudsynligasta lærdóms, um holdtekju Guds sonar, edur þeirrar aunarar persónu í Guddóminum, í hverri einni ad vér nú kunnum ad tilbidja allar, og undir eins, á þúsund audveldara hátt, enn ella, hugsa til Guds í þeirri manneskjuligu náttúru Jesú Christs, sannfærdir þar um af sjálfs hans ordum, er hann sagdi (Joh. 14, 9. 10.): hver hann he'ur sjed mig, he ur sjed Födurinn, því eg er í Födurnum og Fadirinn í mér!

O þú þríeini, eyeini Gud — óransakanliga og ómæliliga vera — Fadir, Sónur og Andi! vér þinar sképnur tilbidjum í djúpustu audmykt, þína guddómligu Hátign! AE vor skynsemi er eins ófær ad ransaka dyptir þíns Guddóms, sem vorir kraptar ad jafnast þínum alfullkomleika. Vér viljum því, Drottinn, láta oss nægja þá geisla sem þú oss sendt hefir af því ljósi sem þú byr í, bædi í náttúrunnar og einkum í nádarinnar ríki. Lát þá sönnu glæda í hjörtum vorum þá heidrun og lotníngu fyrir þér, sem sképnan er skyldug Skaparanum; og þar þú í þínum Syni gjördt hefir geisla þessa svo yndisliga skjæra í kjærleikanum til vor, þá gef oss þá nád ad elska þig fyrir þinn kjærleika, af elskunni hlyda þínum heilagleika, í hlydninni tilbidja þinn guddómleika. Gét þad sé vort yndi, ad sökkva vorri skynsemi nidur í skodun nádar þinnar, ad leggja vorn vilja undir þitt réttlæti og æfa vora

krapta í hlydni vid þín bodord; þá minn vor skynsemi upplýsast, vor vilji helgast, og þinn kraptur verda í vorn vanmætti máttugur, uns vér komumst þángad, hvar hálfverkid tekur enda, skuggsjáin forklárast, gátan verdur rádin og vér munum þeckja svosem vér erum þecktir. Veit oss þad vegna þinnar dyrdar og dygdar! Amen!

## 3ja Hugleidíng yfir þad annad Atridi um Uppruna Syndina.

Somuleidis er kénnt (í sofnudum vorum) ad allar Manneskjur sídan Adams fall skédi, og hvorjar á náttúrligan hátt gétnar eru, fædist (í heiminn) med Synd, þad er án ótta Guds, án trausts á Gudi, og med (vondri) tilgneigíngu; (þeir kénna) og ad þessi Sýki edur Uppruna Spillíng sé í sannleika Synd, sem jafnvel enn nú fordæmi mann, og leidi yfir hann eylífann dauda (þá nefnilíga), sem ecki endurfædast fyrir Skírnina og heil. Anda.

Þeir forkasta (því villu) Pelagiana og annara, sem neita því ad uppruna spillíngin sé Synd, og til þess þeir veiki géti heidur forþénustu og velgjörda Christs, kénna þad, ad Mann-

eſkjan med eigin krøptum ſkynſemi (ſinnar) góri í Guds augum réttlát ordid.

Þetta Atridi um Upprunaſyndina hafa vorrar kyrkju Lærifedur látid ſtrags fylgja á eptir atridinu um Guddóminn; Því Gudi nærſt, rídur oſs á, þeckja ſjálfa oſs. En hvad er þad þá, ſem vér hjá ſjálfum oſs høfum fyrſt og fremſt ad þeckja? Sannliga þad, ſem ſvarar augnamidi þeirrar Sjálfs þeckíngar ſem hér er umhøndlad. Nú er hennar augnamid ecki heimſpekiligt, í tilliti byggíngar vors líkama og ſkapnadar edlis ſálna vorra, heldur er þad ſidaligt edur andligt, nefniliga betrun edur andlig lækníng vors innra Manns, í tilliti til þeſs Sjúkdóms er gjørir hann óhæfan til ad gjøra Guds vilja og verda farſæll; þeſsvegna rídur þeim ſem læknaſt vill á ad þeckja ſyki ſína, hve hættulig og megn hún ſé, ſvo hann hvetjiſt heldur til, ad leita ſér í tíma dugligrar lækníngar.

Og þetta er þá þeſsa Atridis innihald, ad ſyna Manneſkjum hve magnlig ſyki í ſálum þeirra búi ſvo þeim annt um verdi ad leita ſér, medan fáſt kann, heilſulótar medals, er þeim ſídar ſyndt verdur, hvílíkt ſé Nú er Syndin ſú ſyki, ſem inntekid hefir Sálu vora, og gétur ordid og verdur henni ad andligum og eilífum bana, nema í tíma ſé tekid til þeſs ráds ſem dugir; en und-

írrót og ólíſian ſiúkdóms þeſsa, er það ſem hér kallaſt Upprunaſynd.

Ut af þeſsu mikilvæga Atridi trúarbragda vorra hefir til forna í chriſtiligri kyrkju mikid ſtríd riſid, (eins og út af ödrum þeim atridum ſem meira edur minna yfir mannliga ſkynſemi gánga); því þeir ſem framar vilja trúa hugþótta ſínum enn Ritníngunni, hefir alltíd hætt verid vid, ad ſetta ſíngur úti og reingja þá lærdóma hennar, ſem ſkynſemin ei til fulls gripid gétur. Svo er því og ſvo varid í tilliti til lærdómſins um Upprunaſyndina. Sumir hafa ſagt og ſeigja enn, ad Manneſkjan fædiſt í heiminn hvörki góð ne vond, það er í ſidaligu tilliti ad ſeigja; hafi nefniliga hvörki Dygd né Löſt til ad bera, þar hana vanti þá Skynſemi til ad þeckja það rétta og ránga; því ójsſnudur ſé, ad dæma þann ſekan, ſem hvörki þeckir Lögin né gétur haldid þau. Já, eru ſvo diarſir ad ſeigja: ad Manneſkjan þvílik hún fædiſt, med ſyndſamligum tilhneigíngjum, ſé ſvo af Gudi gjörd, og hann kunni þeſsvegna ecki ad reikna það til ſyndar, ſem hann ſjálfur er valdur ad.

Adrir taka hægra í ſtreingina, hvörjir þó ei vilja, heldur enn hinir ſeigja, ad Manneſkjan ſyndug fædiſt, ſamt neita þeir ecki, ad þær af Gudi med ſkvpudu tilhneigíngar, ſéu ſpilltar ordnar, og ſkáleitar því ſem Gud í önduerdu ſkapadi þær í hinum fyrſtu Manneſkjum; nú þó

spillíng þessi — sem með aldrinum af sér fæði allar syndir — sé ecki Guði að þénita, 'emt sú hún ecki synd, né vinni til straffs hjá börnunum, sem ecki géti að henni gjört, og séu einginn orsök til hennar. Verðar því ecki neitað að mannligri skynsemi má sínast þessi síðari meiníng miklu líkindaligri, enn hin fyrri, við hvörri hjarta mans — svo spillt sem það er — hlýtur að hrylla, þar hún berlíga gjörir Guð að orsök til syndarinnar. Menn kunna, að mér virðist, að yfirvega lærdóm þennan á tvöfaldan hátt, nefniliga: annaðhvört eptir skynseminni, þó í tilliti Ritníngarinnar, eður einkostar eptir Ritníngunni. Taki maður orðið uppruna. synd ecki í straungustu merkíngu, ecki svo sýrir sjðaliga, sem ósjálfráða spillíngu eður syki, innrætta mannligri náttúru, sprottna af synd vorra fyrstu forelðra, og sem leiði til allra synda niðja þeirra, þá samhljóðar það Ritníngunni í tilliti til orsakar sem verkunar. Því það, að fall þeirra hafi verið orsök syki þessarar, liggur, án efa, í þeim orðum Ritníngarinnar (Gen. 5, 3) að maðurinn gétið hafi niðja eptir sinni mind; svo sem í mótsetníngu við þá Guðs mind, í hvörri maðurinn var í sköpuðu (? skapaður; líka sýnir það klögun Guðs yfir mannsins vonda náttúrufari svovel fyrir flóðið (Gen 6, 3) sem eptir (8, 21); en hvað verkun syndafallsins áhrærir, gétur ecki með óvísræðari orðum sagst,

enn Páll brúkar (Rom. 5, 12 og 18), hvar hann seigir: ad Syndin (þad sidaliga illu) sé af einum manni í heiminn komin, og Fordæmíngin (nefniliga oll syndinni bædi náttúrliga fylgjandi, og eptir Guds dómi, álogd ólucka) yfir alla menn.

Svo flaut þá af þessari Adams fyrstu Synd, ein erfdasyki í ollu hans af sprengi (máské og því medframm, sem nockrir meina, ad Skilníngs-tréd hafi banvænt verid), hvor syki ad gjordi Manneskjuna óhæfa bædi til ad hlyda Gudi, og verda farsæl af þeirri hlydni; eins og líkþrá born af líkþráum foreldrum géta hvorki fyllt borgara skyldur, né notid heilbrigdra manna luckn. En skyldi nú syki þessi edur spillíng afmást, hlaut Skaparinn, med kraptaverki, ad hreinsa mannsins náttúru ad nyu, og þad svo opt sem afkvæmi fæddist af syndugum foreldrum, um allan heimsaldur; hvar vid þó einganveiginn var gyrdt fyrir Manneskjunnar hrøsun, heldur enn Adams í Paradís, sídst ef bornin hefdu hlotid ad uppalast med syndugum Foreldrum; og hvad var þá Manneskjan ad luckuligri? ad syndga ósviltur, hlytur ad olla lángt stærra straffs, enn spiltur til þess ad teigjast bædi inn- og útvortis. Og þá hefdi hjálpin í Christo líkliga ecki frambodin verid. Hvílík hormuglig tilhugsan! Þessvegna var hitt lángt samkvæmara Guds vísdómi, ad brúka fyrst í stad ekkert kraptaverk,

móti mannsins Frívilja, til ad lækna hans erfdu spillíngu, heldur leita henni ad æda sína vissa tíd uns sá daudadómur, sem Gud hótad hafdi, væri geinginn yfir mannsins ódedlari veru part; en eingu ad sídur géfa honum þó — eins og Evangelíum kénnir — þvílíkt eitt medal vid sýki sinni, sem hann brúkad gjæti, ef hann þad vildi og þækti, sér til heilsubótar, án þess frívilji hans væri ofurlidi borinn, framar enn ádur. Þó skyldi Medalid aldrei ad sönu uppræta Spillínguna úr hans náttúru, medan hann hér lifdi, heldur skyldi hún í honum búa, til ad reyna dygd hans, og gjöra hana ad fastuligri. Þessi hans dygd, sífeldt vansafull, vegna íbúandi spillíngar, og opt sídla byrjud, eptir lánga spillíngarinnar yfirdrottnun, skyldi ad sönnu launast — enn þó hún í sjálfri sér ei til þess vinni — en hennar vansi, svo vel sem yfirdrottnun spillíngarinnar ádur, ei tilreiknast af því ædsta Réttlæti, vegna Fridþægíngar medalsins, þegar Madurinn tekinn væri þad regluliga ad brúka; og loksins skyldi spillíngin sjálf, í daudanum, til fulls og alls afmád verda úr sálunni, svo hún upp frá því gjæti óhindrud þjónad sínum Skapara og notid farsældar. Já, hvad meira er, þó Manneskjan hefdi aldrei í lífi þessu komist svo lángt, ad þekkja adalmedal beirunar sinnar og brúka þad, en hefdi samt annadhvört aldrei ordid þeirrar íbúandi spillíngar vísvitandi þræll, eda

jafnvel tekid fyrir sig sídar ad strída 'henni af alvøru, til ad géta lifad sem samkvæmast því innra Guds lögmáli, skyldi sama medal þó koma Manneskiunni óvitandi til nota, eins og binum sem þad þeckt og brúkad hefdu. Med svoddan móti gat allt geingid sinn náttúrliga gáng, svo midt í því ad Guds hótada straffun fyrir þá yfri yfirtrodslu Gen. 3, 17 rættist á øllu Adams kyni og allri þessa heims sýniligu nát úru (því nú hlaut hún ad svara ástandi þeirrar seku Manneskiu Róm. 8, 20, svosramt sá náttúrligi og sidaligi heimur skyldu sambjóda hvor ødrum); en fyrir þá innvortis og eiginligu synd á persónu þess guddómliga borgunarmans, midt í þessu, seigi eg, gat Guds miskunar augnamid: mannkynsins frelsi og hans dyrd, nádst, med skíkri rádstøfun, betur enn nokkurri annari. Nú sýnist þessi framgángsmáti, ad vísu vera svo vel skynsemi vorri, sem vísdómi Guds — já miskun hans og réttlæti — mikid sambodinn, undireins og hann er í mørgu náskyldur þeim, sem Evangelium kénnir, samt verdur því ecki neitad, ad þad gjørir enn nú meira úr Uppruna-spillíngunni, en hér er gjørdt ráð fyrir. Þad álítur hana ecki ad eins sem íþri sálárinnar, heldur sem virkiliga Synd, er vinni til daudadóms af Gudi. Vér viljum þá sjá hvernig þessi lærdómur um Uppruna-Syndina verdur, eptir Ritníngunni einni ad álítast, aj eptirfylgjandi Greinum.

Í pistlinum til Rómv. 6, 12. seigir Páll. ad daudinn hafi sér til allra manna innþrengt, af því allir hafi syndgad. Hér telur postulinn med berúm ordum syndina orsök daudans hjá öllum mönnum; nú þar sem allir vita ad úngbörnin deya sem fullordnir, þá er þad víst, ad þau syndgad hafa. Sami postuli talar í 7. Cap. mikid um spillíngu náttúru sinnar, og nefnir hana þar 10 sinnum Synd; hvör vill þá, móti Guds anda, vogast til ad kalla hana annad?

Í sendibréfi til Eph. 2, 3. seigir Páll. enn þá: vér vórum af náttúrunni börn reidinnar; þad er ad skilia: vér höfdum af náttúrunni unnid til straffs af Gudi; nú getur einginn til straffs unnid, nema hann syndgi. Þar fyrir erum vér þá allir af náttúrunni syndarar.

Med ótvírædum ordum stendur Rom. 3, 19. ad allur Heimurinn sé vid Gud sakfallinn; væri nú ecki börnin meint hér med, þá væri þad ecki allur heimurinn; og hvör vill þá seigja sá syndlaus sé sem Gud sakfellir? Eins ljóslega er Rom 5, 18 sagt, ad Fordæmíng sé komin yfir alla menn (ad eingum undanteknum) fyrir Adams synd, og Réttlætid aptur, eins yfir alla, fyrir Jesúm Christ. séu nú börnin hér undanskilinn í fyrra tilliti. hlýti þad eins vera í því sídara. Hvar fyrir ef börnin

ecki hafa Syndina af Adam, hafa þau ei heldur Réttlætid af Jesú. Og þó seigir Jesús þeim hepri sitt messianiska ríki til (Marc. 10, 14.), í hvorju ad Paulus (Rom 14, 17.) vitnar, ad Réttlætid sé þau ypparsta hlunnindi.

Eptir sjálfs Guds dómi ber Moyses (Gen. 6, 5.) ad mannsins þánkar séu vondir á hvorjum deigi, nefniliga: alla hans lífstíd frá upphafi til enda; en géta þeir vondir verid, nema syndugir séu? Davíd sjálfur játar sig fæddan med misverknadi og í synd-inni gétinn (Ps. 51, 2); samhljódandi Jobs ordum (14, 4) hvør vill géta hreinan af óhreinum? ecki einn! Davíd seigir og (58, 4) ad þeir ógudligu séu framondi og villtir frá Gudi, allt í frá Módurlífi; og eins seigir Drottinn sjálfur um sitt Fólk (Es 48, 8.)

Af þessum ordum Ritníngarinnar er þá fullsannad, hvørsu hún dæmir um syndsamligar tilhneigíngar í mannsins náttúru, nefniliga: ad þad ecki einúngis sé lángt frá því, ad Gud hafi þær í manninn skapad, heldur séu þær jafnvel meira enn einskostar sjálf náttúrunnar; já þær séu virkilig synd fyrir Gudi, og vinni til refsíngar.

Ad vísu er mér ei ókunnugt um, hvørsu Socinianar og adrir þeirra sinnis, snúa útúr þessum og ödrum ordum Ritníngarinnar, en þad stódur ecki, nema med opinberri meinsíngarþvíng-

un, Gudi til fløts vanheidurs, svo'em hann tala skyldi svíræd ord fyrir skepnum sínum.

En einkum eru þad tvær greinir Ritníngarinnar, sem þeir Kirkjota til, máli sínu til styrktar; sú fyrri finst Róm. 9, 11, hvar Páll postuli seigir um Jacob og Esaú, ad ádurenn þeir hafi fæddir verid, hafi þeir hvorki gjørdt vondt né gott. En hver sier ecki, sem þau ord les í þeirra samheingi, ad Postulinn talar hér einúngis um gjøranligar sjálfrædis syndir, en nefnir ecki girnd edur tilhneigíngar; um hverjar hann, eins og ádur er sagt, hafdi í vidilsins 7. Cap. sagt sína skorinordu meiníngu? Hann talar hér ei heldur um þad vonda, sem gjøri óhæfan til útvalníngar eylífs lífs, heldur hitt, sem alvitur Gud fyrirsá, ad ásídan mundi framar, med aldrinum, drottna hjá Esaú enn Jacob, og gjøra hann óhæfan ad útveljast til Frumfødurs ad Christ. Sú onnur grein stendur hjá Jacob 1, 14. 15, hvar hann seiger, ad girndin fyrst freisti manns, og sídan nær girndin hafi gétid, fædi hún Syndina. Hér seigja þeir ad Jacob gjøri mun á girnd og synd. Svar: já á fullkomnadri synd, sem hann seigir strags á eptir, nefniliga þeirri sem skédur med fullum verknadi, en hann neitar ecki þarfyrir, ad upphyrjud edur uppruna-synd liggi allareidu strags í sjálfri girndinni; sem hann ei

heldur kunni, ef hann ei átti að tala á móti Ritníngunni, já, sjálfs Jesú orðum (Math. 5, 28), sem reiknar eintómt girndar tillit til einnar Konu, jafnvægt Hórdómi, og Jóhannes postuli hatur hjartans á borð við manndráp (1. Joh. 3, 15). Já, sjálfur Jacob reiknar slæmar húgrenníngar saknæmar; til dæmis: Efablendni (1, 6.) sem er einhver hin óhjálfráðasta, og ræður til að hreinsa hana úr hjartanu (4, 8.) sömuleiðis reiði (1, 20), Manngreinar álit (2, 9.), hatur (3, 14.) öfund og drambsemi (4, 5. 6.) Enda tekur svo djúpt í árinni, að hann (4, 17), seigir: að sá sem viti gott að gjöra, en gjöri ecki, hann syndgi. Nú ef að vita gott og gjöra ecki, er synd, hvað þá að vita illt og gjöra það. Hér er þó talað um vitið, en ei verkið. Vitrir heiðíngjar hafa af náttúruljósi einu og reynslu, játað mannsins meðfæddu syndasvillíngu; einn þeirra seigir: að eingInn fæðist án lasta, og sá sé bestur sem minsta hafi; annar: að öllum mönnum sé sameiginligt að syndga; sá þriðji: að öllum sé af náttúrunni innrætt að syndga bæði leyndt og ljóst; og má seigja hér um það almælta: að bragð sé að, nær barnið finni. Hreinsendur trúarbragðanna, Lúther og Melanthon vandlættu sterkt móti þeim lærdómi: að vondar girndir og tilhneigíngar ecki séu synd, og

heldu hann einhvørja þá skiædustu villu. Því seigir Melanthon í sínu ágiæta forsvari Augsborgisku Trúarjátníngarinnar: „Mótstandarnir seigja, ad tundrid, edur sú vonda tilhneigíng sé hvørki góð né vond, en ecki einúngis stríða þar margar greinir Ritníngarinnar í móti, heldr ogsvo gjørvøll kyrkjan og allir Fedur.“ Hann seigir: „ad slíkt séu draumórar grillu-spekínganna;“ því þeim þykir med þessu giørd nidran mannligum verdugleika, og ad hann sé nidrlægdur undir allt hvad audvirdiligast sé, seigja þeir. En þeir seigja magnliga ósatt, því menn giøra ecki lítid úr mannligri náttúru sjálfri, ad því leiti hún er Gudsverk; heldur úr spillíngu hennar ad því leiti hún er verk þess vonda; já, med því at fást svo mikid um þessa spillíngu, játa menn náttúrunnar yppvarligleika í sjálfum sér; því þess hørmuligri er spillíng eins hlutar, sem hann er í sjálfum sér ad ágiætari. Nú seigir Melanthon en framar, ad neitun uppruna-syndarinnar hafi giørdt ómælanligan skada í Christs kyrkju, og verdur því einganveiginn móti mælt; því —

1. Eitt þad leyniligt stolt í mannsins hjarta, er álítur sig fyrir Gudi betri enn hann reyndar er, og þessvegna ecki svo mjøg komimm uppá Guds

náð, sem Ritníngin seigir, hvað að er einhver hin stærsta synd móti honum.

2. Styrkir slíkur lærdómur mikið andvaraleysið, til hvörs maður er af náttúrunni svo hneigður; því þegar hann ecki leingur er hræddur fyrir sínum vondu tilhneigíngum, að þær fordæmi sig, lætur hann sér nægja að varast, þær að eins ecki útbrjótist í versta verknaði; og er það réttur anmarki hræsninnar.

3. Er Guð ferliga giørdur að ørsøk til syndarinnar; því hafi hann skapað — eins og nockrir dyrfast að kénna — syndsamligar tilhneigíngar í manninn, þá er hann sjálfur Freistari til þeis vonda, hvað Post. Jakob þó fortekur (1, 13). Og mun þá ecki ímindan sú gánga guðlasti nærri?

4. Nú þó Guð hefði ecki þennan syndsamligleika sjálfur skapað, en þó liðið að hann innrættist, án þeis Manneskjan væri þar að nockru vøld, hvørnig gétur það þá staðist með hans heil. Rettlæti, að leggja syndarinnar straff á syndlausa sképnu, eins og hann gjørir við úngbørnin?

5. Ríngar þetta störum Christis friðþægíngar verðugleika; því séu børnin syndlaus, svo þurfa þau ecki hans endurlausnar við, meðan þau þvílík eru, og þó seigir hann þeim hevri til sitt evángeliska ríki, hvørt einasta stiptað er

til frelsis syndurum; því heilir þurfa ecki læknarans vid, heldur þeir sem sjúkir eru.

6. Stérdir þessi lærdómur mjøg svo naudsýn Guds Anda sérligu adstodar til Mannsins betrunar, og þar med undir eins æru Guds nádar; því ef syndin er einúngis innifalin í vondum áseníngs athøfnum (þar vid hinum óviljandi og óvitandi gétur madur lítt meira gjørdt, enn vondum girndum), þá sýnist sem manneskjan géti af sjálfsdádum betrad sig, med þeim kreptum, sem hún af náttúrunni hefir, og þurfi því ecki ad bidja Gud um adstod til þess, sem hún sjálf megnar; og þó kénnir Ritníngin oss um hana ad bidja, og seigir ed Gud verki í oss viljan og gjørníngin, eptir sinni þócknun (Phil. 2, 13).

7. Sýnist loksins, eptir hinna lærdómi, sem einginn géti hólpinn ordid, nema hann ádur syndlaus gjørist; því þar sem Frelsarinn seigir: ad einginn kunni í himnaríki ad komast nema hann gjørist sem úngbarn (Matth. 18 3), þad er: (eins og upprunasyndarinnar neitendur kénna) hvorki gódur né illur og þessvegna syndlaus, hvor mun þá þó vinn verda? En ad þeir menn, sem einginn efi er á ad í Guds ríki inngeingnir eru, og þar yrir hafa gjørst sem úngbørn, svo sem vóru Postular Drottins og adrir fleiri, hafi þó ei aluid sjálfa sig syndlausa vera, er ljósara enn um þa[d] ad ræda. Hvør qvartar meira yfir þeirri íbúandi synd enn Páll (Róm 7,

5, 25)? Seigir eckí Jóhannes: ef vér seigjum vér hösum ecki synd, þá svíkjum vér sjálfa oss (1 Jóh. 1, 8)? — Ecki Jakob: allir vér brjótum margfaldliga (Jakob 3, 2)? og Davíd: um þá kvittun á réttri tíd, allir helgir *) þig bidja Ps. 32, 8)?

Látum þá, Brædur! þá skadligu úmindan: ad vér af náttúrunni hvørki vondir né gódir séum, og þad gudlast: ad syndsamligar tilhneigíngar í oss séu Guds verk, látum slíkt aldrei inntaka oss; heldur audmýkjum oss af ellu hjarta fyrir Gudi, og játum oss seka tímanligs og eylífs straffs; ecki einúngis vegna vorra illu orda og verka, heldur og vondra hugrenninga, já vegna vorrar medfæddu náttúru-spillíngar, og bidjum Gud, í Jesu nafni, fyrirgéfníngar á henni, sem hinu. Vitum ad þad er fyrsta undirrót sannrar ydrunar, ad kannast vid og ángrast af spillíngu hjarta síns, og sá kann aldrei

---

*) Því er midur, ad í vorri nýu messusaungs bók Nr. 139. 4 er su gamla og rétta útlegging Davíds orda (kol-chasid) allir Helgir umbreytt til allir í tru v. s. f. Því — ad ósøgdu ødru — tapast þar vid sá mikilvægi Lærdómur: ad sjálfir þeir, sem Ritníngin kallar í þessu lífi heilaga (þad er: fróma, gudelskandi), þurfi og svo ad bidja Gud um fyrirgéfníngu; og ad þeir líka trúliga gjøri þad.

syndina af alvøru ad hata og forðast, sem það gjörir ecki. Heldum oss eitrada af syndinni, fyrir Satans vondsku, eins og Israels menn urdu, sem høggormarnir bitu (4 M. B. 21, 8. 9.) og álítum oss, sem þeim, bana búinn, og það eylífliga, nema í tíma lækníngu fáum, og til þess ad ødlast hana, líkum í trúnni uppá hann, sem med þeim uppíesta Eyrormi tyrirmindadur var (Joh. 3, 14. 15), og þá mun oss svo batna, ad eitur syndarinnar í vorri náttúru, verdur oss ecki ad eylífu meini. En vorunst þó eingu ad sídur, af øllum mætti, ad ala það í oss med vísvitandi synda þiónustu, heldur, fyrir Guds Anda adstod, eydum því, allt hvad megnum, med dagligri ydrun og deydíngu vorra vondu tilhneigínga.

Nú þó vér ecki ad øllu leiti skiljum, hvørnig vér gétum sekir reiknast, fyrir þá spillíngu, hvørri ar vér ei ollandi erum, þá setjum vorri hoidligri hugsun takmark, og med heil hlydni leggium hønd á vorn munn; því þar Drottinn hefir berliga í ordi sínu sagt oss leka fyrir hana, þá skulum vér vita, ad hans réttlæti hefir þar til gildar ástædur, þó vér ei skiljum. Eda mun þad skult fyrir einfaldan únglíng, sem fært skilur í Kóngsins løgum, ad seigja þad ósatt og rángt, sem hann skilur ecki? Og þó er þúsund meiri munur á vorri þeckingu og Guds vísdómi, enn

á eins hálfvita, og þess vísa Salómons. Nei! hé. hæfir oss med audmýkt ad varpa oss í duptid fyrir Guds hátign, og segja: þú Drottinn ert réttlátur, en vér hösum syndgast, vér meigum skammast vor! (Dan 9, 7).

Og lofud veri hans mikla miskun! þeisa játníngu þurfum vér ecki ad gjöra midt í neinni örvæntíngu hans nádar, því allt það stránga, sem oss finst í þeisum dómi Guds, ad álíta eina skérnu straffsmakliga fyrir inurætta vanart, það allt er mókt og snúid í einskiærustu miskun, fyrir Jesúm Christ. Vér þurfum því ecki ad ómaka oss med ad réttlæta Gud í þessu efni, eins og ýmsir hafa tilreyndt, sumir í krapti sáttmála eins, samins vid Adam (Os 6, 7.) fyrir hann og hans nidja; adrir med Guds fyrirvitsku, er skyldi hafa fyrirsjed allra Adams barna fall í hans sporum; og enn nú nockrir med tilliti til Guds óskiljanliga háa réttlætis. Nei! Gud þarf ecki vorrar réttlætíngar vid; hann hefir, sem sagt er, réttlætt sig sjálfur í ver ó m Christi. Vérum því vissir um, ad náttúru-spillíngarinnar gjöld koma aldrei fram á oss, né börnum vorum, nema vér med vísvitandi þverúd og ydrunarleysi ó..hrum Guds nád á oss. Svo þénar þá þeisi lærdómur um upprunasyndina og hennar veld og gjöld, í kroptugasta máta, bædi til ad audmýkja oss fyrir Gudi, vegna vors óverdugleika og vondsku, og vegna hans réttlætis; og svo líka til ad vekja

hjá oss addáun, heidrun og elsku fyrir ríkdóm hans óendanligu miskunar; og undireins til ad uppörfa oss og knýa til glödustu hlýdni vid hans guddómligu bodord, sem ecki meiga, vegna Jesú Christs, þúng álitast. Og hvörigt þessara munum vér no.k.n tíma ofvel gjördt géta. Veri þá hvör sá lærdómur oss ómetanliga dýrmætur, sem styrkt gétur oss til þessa allra heilsusamligasta þánkamáta! já látum oss af öllu hjarta þarum bidja, í Jesú nafni!

Vér þöckum þér, Drottinn vor Gud! af insta grunni, fy.ir þad þú hefir ként oss ad þeckja svillíngu náttúru vorrar, og hvörsu vér erum allir, úngir og gamlir, fyrir þínu augliti, af náttúrunni (ekir eg íts dauda! Æ, géf oss, ad þessi audmjúkjandi lærdómur fylli oss med heilbrygdum fyrir þér, og viddjóð á vorri eigin spillíngu, svo vér því betur vörumst ad ala hana og auka, med vísvitandi syndu þjónustu! En lát jafnframt þessu, náð þína í Christo og hans fridþægíngu, verda oss ómetanliga dýrmæta, med hvörri þú hefir, þrátt fyrir alla vora spillíngu, géfid oss adgáng til þíns ríkis; svo þó vor börn séu, eins og vér, og vér sem þau, gétin og fædd í synd, viltu samt ecki láta þeirra spillíngu oss né þeim ad sálartjóni verda, þar þú hefir kött úr þessu böli algjörliga, fyrir þinn Son Jesúm Christ. Já, læknismedalid í þínum syni, er þúsund kraptugra enn sýki vor og synd; og

gétur jafnvel gjørdt oss lángt hraustari og heilagri ásídan, ef vér þad regluliga brúkum, enn vér verid höfdum, þó eingin synda spilling hefdi oss nockurn tíma inntekid. HE! géf oss nád til ad brúka þetta blessada lífs- og lausnar-medal, eptir þínu ordi, réttiliga, svo þad komi oss ad þeim notum, sem þinn kjærleiki tilætlad hefir. Já, lát sem flesta, møguligt er, af oss eda vorum børnum já, af øllum Adams nidjörfum yfir høfud fara varhluta af þessari þinni nádarríkustu rádstøfun! O, vér hlackum til þess, elskuligi Fadir! ad géta þackad þér fyrir hana, betur enn nú, ásídan í ríki þinna útvøldu eylífliga! Unn oss þess fyrir þinnar guddómligrar gjædsku sakir! Amen!

(Framhaldid sídar, lofi Gud.)

